# Skírsla

## Um athafnir og ástand Sudur-Amtsins Húss- og Bú-stjórnar Félags, fram í Júlíum 1837.

---

Af bodsbréfum, sem útgengu í vetur, er Ykkur, elskudu landar! kunnugt, ad í rádi var þá, ad stofna Húss- og Bú-stjórnar Félag nokkurt fyrir Sudur-Amt lands vors, þókti þad ei fjærri líkindum ad Félag slíkt, í ordi eda verki, med rádi eda dád, eblt, eda ad minnsta kosti studt, gjæti búnadarheill Amtsbúa, í einu eda ødru. Fékk áform þetta strax svo gódann róm hjá ædri og lægri stéttar mønnum og allri alþýdu, ad audrádid þókti, ad ordid gjæti meir enn rádagjørdin tóm; vard þad og dagsanna, því allmargir heidursmenn urdu til ad heita því féstyrk og lidsinni, og sýndu þeir med því ljóslega, ad þeir ekki ad eins vildu stydja eigid gagn, heldur líka annara og ad fødurlands ást og almanna heill var þeim ad skapi. Mættu margir þessara í Reykjavíkur Kaupstad þann 5ta í þessum mánudi, til ad rádgast um þad er Félagid vardadi. Mætti þessi dagur því í raun réttri heita stiftunardagur Félagsins, ad þá vóru embættismenn þess valdir og framvarp til laga framborid; án slíkra géta ei sambønd nein manna ámilli stadfestu eda þroska nád. Af því svo miklu vardar ad løgin sén skinsamlega samin og løgud ad þørfum Félagsins, var nefnd manna kjørin til ad leidrétta og umbæta framvarp lagaverksins, eptir sem þurfa þækti. Til þessa starfs kjøri Félagid Kammerrád og Sýslumann P. Melsted, Landsyfirréttar-Assessor I. Johnsen, og Prestinn P. Helgason; høfdu þeir aflókid sýslun sinni þann 8da næst á eptir; var þá

aukamót haldid af Félagsmønnum og ad nýu rádgast um lagaverkid, þad gjørt ad álitum og samþykt af øllum, svo-lagad, sem þad prentad nú kémur fyrir almanna sjón. Þá var þad líka til ráds tekid, ad Félagid leggi kostnad til ad á prent gángi ritsafn nokkurt, er innihaldi smá ritgjørdir búnadi vidvíkjandi. Med þøkkum og gledi er því tekid hverjum ritlíngi, sem ad þessu lýtur og Félaginu er sendur. Mætti þad virdast, sem innbúar hinna annara lands-fjórdúnga, gætu ásamt haft not slíkrar rádstafanar, og því ekki ólíkligt ad einhvør medal þessara fjórdúnga heidrudu fødurlands-vina, munu leggja skérf sinn til ritsafns þessa, og skyldi ekki heldur á bug vísad, því þó ritgjørd einhvør beinast midadi á heill annara enn Sudur-Amtsbúa, mundi hún þó í einn eda ødru þénad géta þessum til lærdóms eda leidbeiníngar. Þad er í ádurgreindum tilgángi ad Félagid æskir sér ad eignast ritgjørd, sem veiti því greinileg andsvør og úrlausn þessara spursmála: –

„Hvør er nytsemi þúfnasléttunar og túngirdínga í samanburdi vid adra „atvinnu-vegi? Hvør mismunur ágóda ens slétta og girdta og ens óslétta og „vangirdta túns? Hvør best adferd þar ad? hvørnin verkfæri þartil hentugust? „á hvørjum árstídum andunnust? og hvørsu skal medfara, med tilliti til áburd-„ar og ræktunar, þad sléttada og endurbætta tún?“

Því er betur, sem ritgjørd slík heldur er á eigin reynslu bygd, og sakar ekki þótt fleiri enn ein um sama efni verdi í ljós leiddar, því af tveim ólíkum, en þó máské allgódum at-ferlum, má vel ské, ad reynslan smídi sér ena þridju þúfnasléttunar adferd, sem hægust sé og haldkvæmust øllum.

Amtmadur Sudur-Amtsins er Forseti Félagsins jafnan. Adrir embættismenn þess voru á ádur umgétnum Félagsmótum þannig kosnir med atkvædafjølda: Justitiarius Þ. Svein-bjørnsson auka-forseti; Dómkyrkjuprestur Prófastur H. G. Thordarsen Skrifari; Sýslu-madur og Héradsdómari St. Gunnløgsen Gjaldkéri; Landsyfirréttar Assessorar Þ. Jonas-sen og J. Johnsen Félagsins Fulltrúar í Reykjavíkur bæ, Landlæknir J. Thorsteinsen til vara; Biskup Riddari af Dbr. og Dbrm. St. Johnsen og Sekreteri Ó. M. Stephen-sen Fulltrúar í Gullbríngu- og Kjósar-sýslum, Landegandi Þ. Gudmundsson á Eingey til vara; Prófastur H. St. Stephensen og Prestur Þ. Helgason Fulltrúar í Borgarfjard-

ar Sýslu, Sýslumadur H. Einarsen til vara; Kammetrád Sýslumadur P. Melsted og Administrator J. Johnsen Fulltrúar í Arness Sýslu, Hreppstjóri og landegandi S. Steindórsson á Audsholti til vara; Sýslumadur E. Sverrisen og Prófastur Th. Sæmundsen Fulltrúar í Rángárvalla Sýslu, Hreppstjóri og landegandi J. Runólfsson á Arbæ til vara; Sýslumadur M. St. Stephensen og Administrator J. Gudmundsen fulltrúar í Skaptafells Sýslum, Eiríkur bóndi Jónsson á Hlíd til vara. J Vestmanneya Sýslu vóru ad svostöddu eingir Fulltrúar valdir, medan ei er séd hværjir þar eru Félagsins medlimir. A aukamótinu 8da. Júlí var þad ad lyktum fastrádid:

„Ad Félagid heitir verdlaunum í Sudur-Amtinu hverjum þeim er sannar, „ad hann, frá Félagsins byrjunartíd, sléttad hafi þýfdann reit í túni sínu, 40 „fadma í hvört horn af fjórum, og hladid túngard tilsvarandi þeim sléttada „reiti; af svo varanlegu efni og svo vandadann sem faung eru best á. Verd„launin eru ákvedin ad vera skuli frá 15rbd til 25rbd Sylfurmyntar, eptir „verksins ásigkomulagi, ördugleika og ödru fleiru. Verdlauna-beidslurnar eiga „ad vera komnar Félagsstjórninni til handa ei seinna enn 1ta Decembr 1838 „og fleirum enn 6 slíkum verdlaunum er ei heitid ad útbýta fyrir þetta tíma„bil". Verdi þeir fleiri, sem til verdlauna vinna, á næsta ári, sem óskandi væri, skal þeim sídar ekki gleymt.

Ad endíngu ber ad gjöra þad þjódkunnugt, hværnin högum Félagsins fjárefna nú sem stendur er varid. Ekki er meir enn helftin enn aptur komin af útgengnum bodsbréfum og stödugir medlimir Félagsins eru þó þegar bókadir ad tölu 76 auk annara Félagsins velgjördamanna. Vonar Félagid ad allmargir muni enn vidbætast, þótt ekki hafi híngadtil birt huga sinn, medan lög þess ekki vóru kunn gjörd, eda uggvænt var um ad Félagid nædi stadfestu enn sídur þroska. Nú er Félagid stofnsett, lögum bundid og búid til verka, og fjársjódur þess ordinn yfir 600 brdl. Silfurmyntar, vid gódfúsar gjafir og tillög velgjördamanna og Félagsbrædra. Eru því öll líkindi, ad ei verdi fráhorfid í brád. Auk Stiftamtmannanna Kriegers og Bardenfleths, sem hvör um sig gaf Félaginu 50rbd S. M. hefir eingin med jafnstórri framkvæmd og gódvild studt þess fjárhag, sem heidursmadurinn Jón Sighvatsson á Höskuldarkoti, Dannebrogs-

madur; Hann sendi son sinn og tengdason á Félagsmótid 5ta Júlíi, og med þeim 154 rbd S. M. sem hann og þeir høfdu gefid og safnad í grend vid sig, til Félagsins þarfa; vóru þar ámedal 25 rbd frá Jóni sjálfum, sem med hvorutveggju mannsbragdi sýndi þjódlyndi sitt og høfdíngsskap, og ad fjør hans er enn á elli-árum óbugad, þegar á því rídur, ad styrkja fyrirtæki, sem hann ætlar ad midi til almenníngs gagnsmuna. Af fjársjód Félagsins eru 500 rbd. á vøxtum í fjárhyrdslu landsins, sem kølluð er Jardabókar-Kassi; er þad sá skuldastadur, sem margir velja sem óhultastann, børnum sínum og ættingjum, er þeir vilja vel.

Skrifad á Nesi vid Seltjørn í Júlío 1837.

Þ. Sveinbjørnsson

Aukaforseti Félagsins.

---